[Þess Íslendska Evangeliska Smábóka Félags Rit. No. 3.]

# Ein
# Christilig Uppáhvatníng,
til
# Alvarligs Eptirþánka,
fyrir
alla þá, sem vilja verda sannarsælir
og sáluhólpnir,

útlögd úr dönsku og lögud í nockru eptir vors
lands háttum.

---

Opinber. bók. 3 Cap. 20 Vers:

Sjá eg stend fyrir dyrunum og klappa uppá, segir Jesús, ef nockur heyrir mína raust og lykur upp, til hans vil eg ingánga, og kvöldverd med honum halda og hann med mér.

## 1ta Grein
## um það, að Guð vill hjartanlega að allir mætti verdi farsælir og sáluhólpnir.

Þegar vèr hugleiðum, Kjærustu vinir! hvørsu vor gódi Guð hefir svo lángsamlega, á undanførnum tímum, látið oss mjøg orlatlega, bæði i líkamlegum og andlegum efnum sína velgjørninga i tje, þá má oss undir eins maklega til hugar koma, að spyrja sjálfa oss: hofum vèr þá verduglega metið slíka Guðs velgjørninga, réttilega brúkað þá og oss i nyt fært? Saňarlega er þetta ómaks verdt fyrir oss að athuga, því nema vèr svo gjørum, er vísast til velgjørníngar Guðs, snúist oss, vegna vanbrúkunar vorrar og vanþacklætis, til áfellis-dóms. Það verdum vèr að játa, að Guð hefir og svo i líkamlegum efnum, yfrið mørg gjæði veitt oss og i tjelátið, jafnvel óþacklæti og møglan sumra maňa sýnist litt við það kaňast; en hvað skulum vèr þá segja, um hans velgjørnínga i andlegum efnum, sem-

eru þúsundfaldt stærri og fleyri? því þegar vér gaumgjæfum, með hvørsu ósegjanlega gjæðskurikri umhyggju vor gódi Gud og Fadir, hefir, allt til þessarar stundar, sorgad fyrir sálum vorum, og leitast vid, ad frelsa þær frá eilífri fortøpun, en efla og undirbúa þeirra ædstu og eilífu farsæld; þegar vér þetta gaumgjæfum, segi eg, høfum vér allra stærstu orsøk ad spyrja sjálfa oss, hvørsu vér þegid høfum þessar hans velgjørdir, og fært oss þær til nota? vér gétum þó ecki neitad því, og allra sídst munum vér á sídasta degi, fyrir Guds dómstóli, géta neitad því, ad Gud hefir trúlega og óþreitanlega vidleitast, ad vekja oss til ad hugsa um vora eilífu velferd og draga vor hjørtu til sín, sem uppsprettu þeirrar sañu huggunar og sáluhjálpar. Látum oss hugleida: ad sá gódi Gud, sem hefir skapad oss, þó ecki ad eins fyrir þetta nálæga lif, heldur miklu framar fyrir þad eptirkomanda, sá sami Gud vill af øllu hjarta, **ad allir meñ verdi sáluhólpnir, og komist til sañleikans vidurkéñíngar.** Hans adal-ósk og-girnd, í tilliti allra vor, stefnir til þess, ad vér verda skulum rétt luckulegar og farsælar mañeskjur,

ecki einángis þañ stutta tíma, sem vér dveljum hér í heimi, heldur og um alla þá óendanlegu eilífd, sem fyrir oss øllum liggur, og hvorja vér dag eptir dag, æ meir og meir, nálægjumst; því í þessu tilliti hefir Gud skapad oss, og gefid oss eina ódaudlega sálu; í þessu tilliti, hefir hañ oss, allt til þessa dags, vid makt haldid; í þessu tilliti, hefir hañ endurleyst oss, og gef'd oss siñ eingétiñ Son til Frelsara, og í þessu sama tilliti hefir hañ, vor tilbeidsluverdasti Lausnari, Vérid svo fús og viljugur til ad verda ein mañeskja, og til ad pínast og deyja fyrir vorar syndir; þetta eitt og alltsaman er skéd í því tilliti, ad vér skyldum verda luckulegir og farsælir bædi í tíma og eilífd. En hañ, sem nu allra best veit, hvad oss vesælum Mañeskjum þjenar, hañ sier, ad vér gétum ómøgulega ødlast þessa lucku og farsæld, nema vér af øllu hjarta yfirgéfum syndariñar þjónustu og umvendum oss, þad er ad segja, ad vér iñilega og audmjúklega fiñum til þess, í hvílíka hørmúngu syndin hefir steypt oss, og ad vér, med grátbænandi trú, leitum sídan hælis hjá honúm, sem betalad hefir fyrir allar vorar syndir, og vegna hans forþjenustu,

biðjum Guð um náð og fyrirgéfníngu, með þeim alvarlega ásetníngi, að vilja framvegis öldúngis lifa eptir hans vilja, og fyrir hans náðar fulltíngi, framgánga hönum til æru og velþóknunar hér í heimi; og með því hañ nú sjer, að þetta er öldúngis nauðsynlegt fyrir oss, þá er hañ ofanà allt añað svo náðugur, að hañ ecki hefir einungis í orði sínu kéñt oss þetta, heldur hefir og svo á allañ mögulegañ hátt viðleitast að uppvekja og upphvetja oss þar til; eður með öðrum orðum að segja: hañ kallar oss og býður trúlega til sín að koma, eptir sínu egin kjærleiksríka loforði, þá hañ sagði: **Þegar eg verð upphafiñ frá jörduñi, þá mún eg allar mañeskjur til mín draga.** Jóh. 12, 32. O! þu miskunsami góði Guð! fyrir hvörsu mörg meðöl hefir þú oss allt til þessa, til þín kallað! við hvörsu mörg tækifæri hefir þú staðið fyrir vorum hjartans dyrum, og klappað þar uppá! en, ó hvörsu tregir höfum vér verið fyrir þér uppað ljúka! Allañ dagiñ hefir þú staðið með útbreiddañ þiñ föðurlega kjærleiks faðm, og kallað þá fortöpuðu synina til þín; en, hvörsu fáir hafa þínu náðar boði sæta viljað! Herrà

Jesú, ástsemi þín við oss og eptirgángsmunir eru ósegjanlega miklir! daglega og á ýmislegan hátt heyrum vér þessa þína náðar raustu til vor hrópandi: komið til mín, ó þér syndarar! eg vil yður endurnæra! eg vil yður sáluhólpna gjöra! Haltú, ó Jesú! þessum þínum náðar lockunum sem allra lengst fram við oss, iñ til þess þú færð oss alla til þíñ dregið!

## Látum oss í 2añ máta hugleiða: hvörsu Guð hefir sérílagi fyrir sitt heilaga orð kallað oss til sáluhjá'par.

Því ættum vér aldrei að gleyma, hvörsu Guð hefir nú í svo mörg ár, gefið oss sitt heilaga orð og Evangelíum, og hvörsu hañ allstaðar í landi voru hefir látið það hreint og klárt prédikast vor á meðal, og ecki einasta hefir hañ unt oss að heyra það opinberlega í kirkjunum, heldur hefir hañ þar að auki, gefið einum og sérhvörjum af oss tækifæri til að lesa það og yfirvega heima í húsum sínum, sér til uppvakníngar og betrunar. En hvört mun nú vera höfuð iñtak þessa hans heilaga

orðs og evangelíí, sem hañ af síñi ást og Kjærleika hefir gefið oss? mun það ecki vera þessi stóri sañleiki: að jafnvel þó vèr syndarar sèum, sem ómøgulega með voru egin rèttlæti staðist getum fyrir þeim heilaga og alvitra Guði, þá þurfum vèr samt ecki eil flega fortapaðir að verða; heldur høfum eiñ Frelsara, sem oss hefir afrekað náð og sáluhjálp, svo nær vèr aðeins af alvøru snúum oss til hans og trúum á hañ, þá kuñum vèr og svo að fiña hjá hønum frelsun af syndariñar yfirdrottnun, og øðlast krapt til að verða Guðsbørn, það er sañfarsælar mañeskjur, bæði í tíma og eilífð. Þessvegna er oss í Guðs orði, við sèrhvørt tækifæri, til hans vísað, og allstaðar fyrir sjónir sett þau ypparlegu gjæði, sem vèr úr bítum berum, nær vèr komumst í trúariñar samfélag með hønum. Þar fyrir stendur svo skrifað: um þeñañ bera allir Spámeñ vitni, að hvør sá sem á hañ trúir, skuli fá syndaña fyrirgéfníngú í hans nafni. Póst. g. b. 10, 43. Og sjálfur Jesus sagði svo: komið híngað til mín allir þér sem erfiði drýgið og eruð þúnga

þjádír, eg vil ydur endurnæra, Matth. 11, 28.

Fyrir þetta sitt ord, hefir Gud þá bodid ofs til sín, og hañ hefir med því opt og kroptuglega talad til hjartna vorra. Vér høfum máské og svo margsiñum, undir Guds orda heyrn og lestri, komist vid í samvitskuñi, og fundid þeña þánka uppstíga hjá ofs: æ! skyldum vèr þá ecki elska hañ, sem elskad hefir ofs ad fyrra bragdi, og elskad ofs svo ósegjanlega heitt! skyldum vèr ecki leita Drottins, medan hañ er ad fiña! skyldum vèr ecki flyta ofs ad frelsa sálir vorar! En hvad hafa þessir þánkar verid, añad eñ hans góda heilaga anda nádarraust í hjørtum vorum. Gjætum nú ad, kjærir vinir! gjætum ad, hvørsu vèr gegnt høfum þessari hans nádar-røddu? hvørsu vèr høfum hlýdt þessari hans kjærleiksfullu tilløddun? því alldeilis ecki er þad nóg, þó vèr fiñum til þessara Guds-anda verkana iñvortis endur og siñum, ef þær ecki rótfestast svo í hjørtum vorum, ad þær uppvekji hjá ofs iñilegt ángur fyrir syndirnar og vidbjód á þeim; saña lifandi trú á Jesum vorn Frelsara, og

ñt af truñi sprettandi dagliga bænrækni og betrun lifnadàrins.

En, hvörsu má óttast fyrir, ad Guds andi og ord fái þetta framqvæmt hjá allfærstum! því jafnvel þó þeir séu ecki margir í voru laudi, eins og añarstadar, sem opinberlega forsmái Guds ord og forkasti því, edur dragi spott ad þeim himnesku og dyrmæta sañleika, sem í því er opinberadur, þá er þó deginum ljósara, ad þeir eru yfrid margir, sem heyra þad med stærsta kaldsiñi og dosiñleika, og sem velgir vid þessari himnesku fæduñi, eins og Jsrael fordum vid maña í eydimörkuñi, þar allt þeirra hjarta og siñi er svo slækt iñí þad jardneska, ad þeir gèfa engañ gaum ad því Guds rádi og vilja til þeirra sáluhjálpar, sem þeim í hans ordi bodadur er; ellegar þó þeir hafi því gaumgéfid um siñ sakir, og sem eitt augnablik ordid hrærdir þar af, jafnvel svo þeir hafi ei gètad tára bundist, hafa þeir þó strax aptur, látid svo holdid og heimiñ vid sig ráda, ad þeir hafa slíkar gódar hræríngar sér eckert framar í nyt fært. — Gud nádi slíkañ daudans dosiñleika og skeitingarleysi hjá þeim kristnu! því nema slíkir umvendist alvar=

lega, og verdi nÿ sképna í Jesú Kristo, er þeim vissari fordæmíngin, heldur enn þeir hefdu aldrei heyrt Guds ord og aldrei hrærst af því, því á þennan hátt mótistanda þeir heilögum anda og hriggja hann frá sér, sem er sá beinasti vegur til glötunarinnar.

## En framar lákum oss í 3ia máta yfirvega ad Gud hefir og svo med fleirum medölum, enn sínu ordi, vilad leida oss til umvendunar og sáluhjálpar.

Jafnvel þó Guds ord sé þad dÿrmætasta, þá er þad þo ecki þad einasta medal, med hvörju vor trúfasti Gud hefir híngad til kallad oss og bodid til sín; hann hefir og svo, med margföldum timanlegum velgjörníngum, blessíngum og typtunum, leitast vid ad ávinna vor hjörtu.

Í tilliti hans velgjörnínga vid oss, er eg alldeilis ecki í standi ad upptelja allt þad góda, sem hann í líkamlegum efnum hefir audsÿnt oss, en þó er verdt ad vér athugum þad eptirfylgjandi, sem eg vil fráskíra. Vér höfum nú í ædi mörg undanfarin ár, verid vardveittir frá almennilegum stórum landplágum,

og um margar alldir (vort land ad segja) frá stridi og blóds=úthellíngum, og undir eins morgum þeim hørmungum, sem stridid færir med sér; þar ad auki hefir Gud lengi hlíft oss vid hættulegum og eydileggjandi sjúkdómum á manneskjum og fénadi, en høfum hvertámóti flestir notid heilsu og hellbrigdis optast nær; høfum haft naudsynlegt vidurværi, fyrir oss og sképnur vorar til lífsbjargar, og mátt svo njóta þess góda, sem Gud hefir géfid oss, í fridi og nádum. Vér høfum og svo ìbland haft nockur velltiár til lands og sjóar; og þó þau hafi ecki svo mørg verid, hafa þó hin verid þess fleiri, sem Gud hefir géfid oss flestum vort daglegt braud, án þvíngandi fátæktar, edur yfirgnæfandi ríkdóms, svo vér høfum þvi luckulegri verid, enn margar adrar þjódir, ad Gud hefir óbedinn uppfyllt á oss Agurs forsjálu bæn: fátækt og ríkdóm géf þú mér ecki, Drottinn! heldur al þú mig á mínu daglegu braudi. En, þvi mun nú Gud hafa synt sig svo gódann og líknsamann vid oss? munum vér nockud hafa til þess unnid ødrum framar? skulum vér þá láta þessar óforþjentu Guds velgjørdir vid oss, koma oss til ad verda þess

latari og dofnari í hans dýrkun? skulum vér láta hans útvortis nádugu medhøndlun á oss, svæfa oss í andvaraleysi og óþacklæti, í stadiñ þess slíkt ætti ad uppvekja oss til ydrunar, audmýktar og þacklætis? Hugsum til þess hvad Postuliñ Páll skrifadi fordum til þeirra kristnu í Rómaborg: forsmáir þú, segir hañ, ríkdóm Guds gjædsku, lánglundar géds og þolinmædis, og hugleídir ecki ad hañ þar med vill leida þig til umvendunar? Róm. 2, 4. Látum oss því alldeilis ecki um þad efast, ad med sínum tímanlegu velgjørníngum, hefir Gud og svo viljad yfirtala og locka oss til ad snúa oss til sín, og gjørast sín børn. Já, hañ hefir og svo med þessu móti stadid fyrir vorum hjartans dyrum, kallad á oss og bodid oss nád sínni. En, þú vesæla mañeskja! hvørsu tídt og opt hefir þú þó ecki forherdt þitt hjarta, móti þessu þíns góda Guds og Fødurs nádar ávarpi? hvørsu opt hefir þú ecki med stærsta kaldsiñi og vanþacklæti þegid hans jardnesku gáfur? og í stad þess, ad láta þær upphvetja þig til ad verda hønum hlýdnari, þacklátari og handgengnari, hefir þú máské misbrúkad þær í uggleysi, hønum

til styggdar og sálu þinni til skada og ólucku; hvørsu opt hefir þú ecki lèd þinn heilbrygda líkama, syndinni til þjónustu med hennar slegt slag? og um fram allt, fest hjarta þitt vid þetta jardneska, svo þad hefir tapad allri lyst og laungun, til þess himneska? þú hefir brukad allan þinn tíma til ad sorga fyrir þessu líkamlega, en engann edur sára litinn til ad ávinna þau andlegu gjædinn; og þá sjaldan þú hefir útvortis synst vilja ræçkja andlegar naudsynjar, hefir hjarta þitt verid svo fullt af heiminum og hans hégóma, ad þín Guds dýrkan hefir ecki verid nema munnslapur eitt og látaglaumur; midt í øllu þessu hefir þó Gud enn ecki ordid þreittur né leidur á ad miskuna þér; hann hefir gjort þér allt gott midt í því þú hefir verid ad módga hann, og uppfyllt þig med fædslu og føgnudi þegar þú hefir hvad mest vanþackad hønum. O Manneskja! skammastú þín, og sjádú ad þér! Láttu þó Guds gódgirni lokkins leida þig til yfirbótar, svo hann ecki annadhvørt neydist til ad brúka vid þig ønnur skarpari medøl, edur ofurselja þig þínum eginn hjartans blindleika.

Þad annad útvortis medal, med hvørju

Gud hefir leitast vid ad uppvekja oss af vorum háskalega andvaraleysis svefni, eru bendíngar; hañ hefir, nefniliga á undanförnum árum og t mum, látid oss heyra skélfileguſtu tid ndi um margslags hörmúngar, sem i ödrum löndum hafa plágad vorar med-mañeskjur; Svoleidis höfum vér heyrt getid um, hvörsu blóduguſtu str:d hafa rasad á mörgum stödum, og steypt ótal mañeskjum í óútmálanlega eymd og hörmúngu. Þad eru ei heldur nærsta mörg ár s:dan stridsins offi braust iñ á höfuostad vors Kóngs-rikis, gjördi þar strax geysilegt blódbad, svo mörg hundrud mañeskjur sættu l fs og lima tjóni, og s:dan hefir stridsinsvöndur verid uppreiddur yfir þetta riki, sem hér og þar hefir ljóstad nockur þess börn til bana, en ollad hinum hrellinga og hardra kosta; allt til þess Konúngur vor, nú fyrir skémstu, neyddist til ad kaupa oss til handa eiñ frid, sem Gud gæfi yrdi svo lángvíñur, sem hañ var dýrkeyptur. Hér fyrir utan hefir drepsótt og banvænir sjúkdómar, á ödrum stödum heimsins, burtuslitid mörg þúsund mañeskjur; og svo hafa sumstadar jardskjálftar, vatna-ágángur, fellibyljir og fjár-

sýki, útbreidt hørmúng og eyd'leggíngu. Í nockrum stødum hefir grimmasta húngursneyd þvíngad mannesfjur, hundrudum saman, til ad yfirgéfa hús og heimili og føburland, til ad leita sinu vesæla lífi uppheldis í ødrum løndum; vér høfum og svo heyrt smámsaman hér og þar ad úr landi voru, hvíslegt þad, sem og svo mætti þjena oss til uppvaknúngar. Einkanlega høfum vér frétt hms vofeislegt mannalát; hvørsu sumir hafa farist brádlega í sjó og vøtnum, sumir í snjóslódum og vatnsskridum, sumir ordid úti í hrídum og illvidrum, nockrir hafa ordid brádqvaddir úti á vídavángi, nockrir í svefni, og nockrir í dryckjuskap; og ad hmsir af þessum hafi dáid án umvendunar, og midt í sínum syndum, er, af mannanna alþekta ásigkomulagi, mjeg svo ad óttast. En hvad mun nú Gud vilja ad allir þvílíkir tilburdir skuli verka hjá oss? mun hann ecki, fyrir slík skielfileg tídindi, líkasem tala til vorra hjartna á þennan hátt: sjá þú og adgjæt, ó mannesfja! hvørsu audveldlega og á hvørsu margfaldann hátt, eg get lægt þeirra hofmód, sem standa á móti minni nád! — sjá hvílík hørd medøl eg opt hlýt ad brúka ti ad uppvekja mannesfjurn-

ar, ad athuga s'na egin velferd! — sjá hvørsu eg læt opt og tídum mína rèttlætis hefnd detta yfir þá óvørum, sem ecki vilja sæta mínu nádar tilbodi; sjá nú! svo hlyt eg og svo ad breyta vid þig; og hlyt ad refsa þèr þúnglega, edur kippa þèr burtu midt í þínu hdrunarleysi, ef þú ecki med gódu lætur mína miskunsemi, mitt ord og' anda, uppvekja þig og leida til umvendunar! — Hèr á heima þad sem Jesús sagdi fordum: meinid þér ad þeßir Galilæar, hvorra blódi Pílatus hefir úthellt, hafi syndugri verid eñ allir adrir Galilæar, þó þeir yrdu fyrir þessu? nei, eg segi ydur: ef þér ecki umvendid ydur, munud þér allir eins fyrirfarast. Luc. 13, 2, 3. Svo má og svo segja um oss í þessu landi: meinum vèr sèum nockru betri þeim, sem í ødrum løndum hèr og þar falla í drepsótt og bardøgum, fara laudflótta og lída húngurs neyd? eda munum vèr vera betur, margur hvør, undirbúiñ ad taka á móti brádum og vofeiflegum dauda, eñ sumir af þeim, sem bædi hèr í laudi og añarstadar hafa farist af hønum og fortapast eiliflega? nei! Gud lætur vid þeßi tidindi oss ad eyrum beraft, ad hañ

vill uppvekja oss med þeim til alvarlegs eptirþánka, til ad hyrda um vorar egin sálir, og til ad hugsa þannig med sjálfum oss: æ! hvørr veit nema Drottins hønd og svo falli yfir mig, eins og þennan og hinn, þegar minst vonum varir! hvada orsøk hefir hans nád framar til ad þyrma mér enn þeim! æ eg vil þessvegna strax snúa mér af øllu hjarta til Drottins, svo hans reidi kippi mér ecki burt, midt í mínum syndum! — En, Gud nádi! hjá hvørsu fáum af oss, verka þessar Guds bendingar slíkann heilsusamann eptirþánka! þeir flestu láta þvíl kar fregnir gánga innum eitt eyrad, og útum ann ad, eins og þær snerti þá ecki í hinu minsta; eins og Gud hafi enga orsøk yfir þá ad falla sem hina, edur þeir séu óhulltir fyrir dauda og dómi. Og þó sumum hafi máske, um sinnsakir, nockur alvarlegur þánki í hug flogid, hafa þeir med ásetníngi hønum aptur frá sér hrundid, svo hann skyldi ecki hindra þá frá þeirra ver alldlegu gledi; adrir hafa látid hann sjálfkrafa hjá sér nidur kjæfast, midt í heimsins umsvifum og sýsli; hvarfyrir slík Guds vidleitni ad uppvekja syndarana, nær hjà þeim allfærstu, sinum tilgángi.

Þessvegna, þegar hvorki Guds velgiorníngar né bendíngar orka ad vekja mañeskjurnar til yðrunar, hlýtur Gud ad taka stundum til añara skarpari medala, og med sínum typtunar vendi, aga þá athugalausu syndara; og er þad stór nád Guds, nær hañ gjörir þad, og ofurgéfur ecki mañeskjuna, án frekari vidleitni, heñar egin hjartans forherdingu. Gud hefir ecki heldur látid oss varhluta fara af þessum sínum tilraunum; því hañ hefir líka stundum snortid oss þúnglega med hrísi hørmúngaña, sendt oss dýrtíd og hallæri, og endur og siñum mañskjæda sjúkdóma. — Og má oss optar eñ sjaldnar miñi reka til þess í landi voru, hvørsu Gud, nú ad telja fyrir hér um bil hálfum mañsaldri, heimsókti oss med þúngu straffi á þeña-hátt; þá sólin og túnglid vard sem blød fyrir vorum augum, loptid fullt med óheilnæmustu dampa, sem banvænir urdu bædi møñum og dyrum og hafsins vegur tilluktist fyrir øllum bjargrædis útvegum. Hvørsu munu meñ nú miñugir vera þessa sídan, og hafa betrad sig fyrir augliti Drottins? gjæstandi ecki þess, hvørsu audveldt Gud kañ ad bjóda høfudskepnunum ad strída á móti oss,

og hefna á ofs sínar nádar forøktunar; því þar sem hann geymir undir fótum vorum medølin til ad straffa ofs, elld og brennistein í fylsnum jardarinnar, kann hann med einustu bendingu ad bjóda jørdunni ad opna sinn munn, og láta eitt flód af elldi uppsvelgja ofs, eins og Sódóma og Gommora fordum, edur og láta ísinn útgánga af sínu lífi, eins og hann sagdi vid Job fordum, og umgirda vora eyju med hønum, sem ødrum óvina hersfildi, og láta þannig húngur og dýrtíd þryckja ofs eins og þeim í Samaria. Og nú fyrir ei svo mørgum árum, er þad skéd, ad Drottinn reiddi þenna vøndinn uppvid ofs, þó hann samt vægdi ofs og eydilegdi ofs ecki, eptir vorri verdskuldun. En hvørr skipast nú vid allt þetta? vér æpum ad sønnu og berum ofs f.rgrætilega, medan hrísid lemur á ofs, en undir eins og því léttir af, er hjarta vort ordid steinum hardara og ísinum kaldara. Já, sumir jafnvel medan neydin yfir stendur forherda hjarta sitt med hmislegum falskrar huggunar fortølum; þeir álíta svoddan allt framkomi af hendingu, edur náttúrlegum orsøkum, án Guds forsjónar og tilhlutunar, og þad mundi eins

framkoma hvørt meñ lifdu vel edur illa; já, vorra daga vísdómur styrkir jafnvel þvílíkañ villulærdóm; en Guds egid ord, sem aldrei kañ á tálar ad draga, þad kéñir oss allt añad, Jesús sagdi sjálfur: ad ecki eiñ titlingur félli á jordina án síns himneska Fødurs vilja, Matth. 10, 29. Og skyldum vér þá þenkja ad þad skéi án hans sérdeilis rádstøfunar, þegar margar þúsundir af dýrum og mañeskjum verda daudanum ad bráð? O nei! ecki þad allra minsta í heiminum skér án hans vísdómsfullu tilhlutunar. Svo megum vér vera vissir um þad, ad hvad helst sem oss mætir á vorum lifsins vegi þad framkémur vid oss, allt eptir hans rádstøfun; hvar fyrir og svo ad stríd og blóds úthell ngar, drepsóttir og sjúkdómar, húngur og dýrtíd, elldsbruni og vatnsvodi, eru alltsaman vendir í Guds hendi, med hvørjum hañ vill typta þær athugalausu mañeskjur í heiminum, og uppvekja þar med, bædi þá sem fyrir þeim verda, og hina sem af þeim frétta, til þess ad þeir skuli med stærri alvøru sorga fyrir sálum s num.

En sé nú þetta augnamid Guds velgjørnínga og typtana, sem hañ sendir almeñilega

løndum og lýdum, og hafi hañ med þessu reynt til ad uppvekja oss, og draga oss til sín alla ýfir høfud, þá hefir hans nád ei heldur sparad þá somu vidleitni ad brúka vid sérhvørn af oss út af fyrir sig; vid hvørsu ótal mørg tækifæri hefir Gud talad til sálar eins og sérhvørs medalvor, med staklegum velgjorníngum, bendíngum og typtunum? hvørsu opt hefir Gud dásamlega vardveitt oss í ýfirhángandi háska, og sendt oss staklega hjálp á neydariñar tíma, svo vér høfum mátt rétt sem þreifa á Guds vernd og adstod vid oss? stundum hefir hañ sendt oss til handa hmisligar reynslur, hmist med sjúkdómum á oss edur vorum náúngum, stundum med ástvina missir, líka med hmiskonar ødru mótlæti og bágindum, sem oss sjálfum, edur oss vandabundnum kañ ad hafa tilfallid. Med þessu hvørju um sig, hefir vor trúfasti Gud leitast vid ad uppvekja oss til ýdrunar, og líka sem stadid fyrir vorum hjartans dyrum og klappad uppá. Eg, fyrir mína persónu, kañast vid márgar slíkar Guds nádar vidvaranir, mér til handa, med hvørjum hañ hefir krøptuglega fyrir siñ anda talad til miñar sálar, og eg er viss um, ad

sérhvørr sem þetta les edur heyrir, og af alvøru vill eptir því hugsa, verdur ad játa þad sama. Já, vissulega, á hinum stóra reiknings skapar degi, þegar allt þad skal í ljós leidast, sem hér hefir verid í myrkrunum hulid, þá mun vist sérhvørr af oss hljóta ad vidurkéña og játa: ad Gud hafi á þeñañ edur hiñ hátt, þráfaldt og krøptuglega talad til vorra hjartna og leitast vid ad uppvekja þau til apturhvarfs, þá mun samvitskan vakna, sem ádur hefir verid svæfd, og brígsla mañi um, ad hañ hafi svo dárlega forsmád Guds advaranir, og slegid þeim í vind; þá mun margur, sem nu sefur, med forgéfins ydrun óska: æ ad eg hefdi í þad og þad siñ, sem Gud vildi vekja mig, gegnt hans nádar-raustu! æ ad ég hefdi í tíma lokid upp fyrir hønum mínum hjartans dyrum, á hvørjar hañ svo þráfaldlega til forgéfins klappadi!

Látum oss nú í 4da máta setja oss fyrir sjónir.

## Hvørsu skélfelegur háski þad er, ad forherda sig í gégn øllum Guds nádar advørunum.

O! hvørsu mætti sú ósk rétt sem breña

í vorum hjørtum: æ ad vors góda Guds og Fødurs óþreitanligu kjærleiks advaranir yrdu ecki til forgéfins á oss!. æ ad vér tækjum hans þúsundføldu áminingar oss til eptirþánka! eda, hvørnig mun fyrir oss fara ef vér forherdum hjørtu vor í móti øllu Guds nádar rádi? máské Guds miskunsemi vilji þá reyna til ad brúka vid oss eñ nú skarpari medøl til ad frelsa sálir vorar! máské hañ vilji senda oss eñ nú hardari almeñilegar edur staklegar typtanir, til þess, ef møgulegt er, þar med ad uppvekja oss af vorum svefni og andvaraleysi; svo þúngt sem þetta mundi þykja, væri það þo stærsta velgjørd hjá því, ef hañ skyldi ofurselja oss í fráleitt siñi, og ala oss, eins og kálfa, til þess stóra slátrunar dags allra ógudlegra; en skyldi nú Guds nád ecki samt og ádur viña svig á oss, æ! svo værum vér sjálfir, og engiñ añar, søk í vorri eilífri fortøpun! og hvørsu skélfilegt til ad hugsa, ef vér — um alla eilífd, hlytum ad ásaka sjálfa oss um það, ad vér hefdum af sjálfskapa vítum steypt oss í eilífa fordæmingu! Vér høfum þó í heilagri ritníngu mørg skélfileg dæmi uppá það, hvørsu ómælanlega hættulegt það er, ad forherda hjarta

sitt móti Drottni, og forsmá hans nádar-tilbod; því hvørsu fór fyrir þeim vesælu mañeskjum, sem lifdu á tímum syndaflódsins? Gud lét þañ réttláta Noah áminña þá og adgvara, og í hundrad og tuttugu ár frambaud þeim sína nád, ef þeir vildu forbetra sig, en þeir skeittu því ecki, þeir átu og drucku, giptu sig og létu gipta og kjærdu sig eckert um þad, hvad Noah sagdi, allt þar til syndaflódid kom og svipti þeim øllum burtu. Eins géck þad og til, vid Sódómæ borgar eydileggingu; Drottiñ hafdi útsendt sína Engla til ad frelsa Loth og hyski hans, og eptir þeirri vidvørun, sem Englarnir gáfu hønum, rádlagdi hañ þeim moñum í borgiñi, sem trúlofadir vóru dætrum hans, ad þeir í tíma skyldu hafa sig burtu úr stadnum því hønum væri ólucka búin, en meñerner vóru svo skeitingarlausir ad þeir hyrdtu þar eckert um, og fyrirfórust þessvegna, ásamt hinum ødrum ógudligu iñbyggjurum. Á þañ sama hátt fór þad og ad lyktum fyrir því forherdta Gydínga fólki; Drottiñ Jesús umgéckst í egin persónu medal þess, og med sínum ástúdleguslu og mest hjarta hrærandi sañfæringum baud sérhvørjum ad verda siñ

lærisveiñ, og taka hlutdeild í sínu ypparlega náðarríki, en fólkið tók þessu hans náðar tilbodi, ecki hetur eñ svo, að hañ hlaut harmþrúngiñ að qvarta þar yfir og segja: Jerúsalem! Jerúsalem! hvorsu fús hefi ég viljað samansafna bornum þínum, eins og hænan safnar úngum sínum undir vængi sér og þér hafið ecki viljað. Matth. 23, 37. En hvornig géck þá fyrir þessu fólki að lyktum? þess hormulega forherdíng olli því, að þeirra ríki fullkomliga eydilagdist, og oll þjódin var aumkunarlega nidurdrepin og sundurdreifð út um allañ heimiñ, svo hún, jafn vel iñtil þessa dags, er eitt skodunar teikn Guds hefndar, fyrir augum allrar veraldar.

Svoleidis gengur það til, kjærustu vinir! þegar meñirnir eiñ tíma eptir añañ, forherda hjørtu sín, gégn Guds allra náðarsamligustu áminníngum, og vilja ecki hans náðar ráði sæta; æ! að þvílíkt þverlyndi, svoddan skélfilig forherdíng findist ecki vor ámedal! o! að vér ecki nidur kjæfdum Guds náðar áminíngar í samvitskum vorum, med þeim ógjæfusama þánka: Þar er engin hætta á ferdum; þeña þánka hofdu og svo hinar vesælu mañeck-

fur sem fórust í syndaflódinu og í Sódomæ og Jerúsalems-borga eydileggíngum. O! ad vér vildum heldur breita eins og innbyggendur Borgarinnar Ninive; því þegar sá nádugi Gud, sem hefir eptirlæti af ad miskuna, og hvørs girnd þad er ad þyrma syndurunum, sendi Spámanninn Jónas til þeirra, og lét brýna fyrir þeim syndir þeirra, samt hvad af því fljóta mundi fyrir þeim ef þeir ecki sneri sér í tíma, þá klæddu allir innbyggendur stadarins sig í sorgar búníng, vidurkéndu med ángri afbrot sín og misgjørdir, bádu Gud innilega um nád, og tóku fyrir sig nýtt sinnislag; þessvegna þyrmdi Gud þeim og svo fyrir því straffi, sem hann hafdi þeim hótad.

Sá eilífi Guds kjærleiki hefir og svo, eptir sem eg fyrr á minntist, á mjøg margfaldann hátt til vor talad, og vid margskonar tækifæri leitast vid ad draga oss til sín; hann hefir sendt sína sendiboda til vor í sinn stad, og látid alvarlega áminna oss til ad forl·kast vid sig, í Kristó Jesú. O! ad vér vildum því allir, ríkir og fátækir, hvør med ødrum, svo margir sem í minsta máta skiljum hvad oss hollast er, sæta þessum Guds áminníngum, og af hjartans-

rót audmýkja ofs fyrir hañs augliti til ad vera hañs nádar kollun hlýdugir. Eg segi ríkir og fátækir, hvør med ødrum skulum þetta gjøra, því sá sem í ríkidæmi og auranægt lifir, og gétur haft allt hvad hans hjarta lystir og tilángar, hañ þarf þó aldeilis ecki ad hugsa, ad sér sé engin hætta búin, og ad hañ óhultur megi sitja ad sínum jardneskufjársjódum, ellegar sóa øllum sínum tíma burt í synd og andvaraleysi; nei, sá almáttugi heimsins stjórnari hefir þúsund siñum þúsund medøl, med hvørjum hans typtandi hønd gétur eiñig náð til þvílíkra, og sýnt þeim hvørsu þeirra svikuli leir-afgud, audurinñ, sé forgengilegur, og hvørsu allir þeir sem leita siñar einustu ánægiu af høuum, verda á tálar dregnir því dæmi eru og svo til þess nóg, jafnvel á vorum døgum, nockur í þessu landi, en þó fleyri í ødrum, hvørsu ríkidæmi og metord heimsins eru fallvøllt, og hvørsu brádlega sá ríki og voldugi kañ ad steypast í fátækt og volædi; og eru þá eugir verr farnir, eñ slíkar mañeskjur, ef þær hafa ecki ádur verid í Gudi ríkar, svo þeirra hjarta búi yfir þeirri audlegd, hvørri eckert óluckutilfelli kañ nockurn mañ naudugañ ad

ræna. En látum nú svo vera, sem opt ber vid, ad sá ríki og voldugi haldi sínu veraldar láni allt til dauda dags, þá er þad hans lán, er heimurinn svo nefnir, ef hann þar hjá sefur í sínu andvaraleysi, hønum efni þeirrar allra stærstu ógjæfu, sem gjørir hann ad stallbródur hins ríka manns, er uppvaknadi í helvíti og qvølunum. O! ad allir þeir sem ríkir eru, edur ríkir vilja vera, vildu hugsa um þetta í tíma, og láta Guds føðurligu gjædsku hræra sig til ydrunar, svo þeir ástundi framar øllu ad verda í Gudi ríkir og af gódum verkum, svo þeir egi þá audlegd vísa á himnum, sem óforgengileg er. En þú hinn fátæki og vesæli, sem lifir vid hmislega bága kosti í verøldinni! adgjættu fyrir hvad mikid þú átt Gudi ad þacka; þú ert sviptur þeim snørum, í hvørjum margur einn festir snar fætur í heiminum til eilífs dauda; þessvegna er þér nú enn minni vorkun, en þeim ríka, ef þú hafnar Guds nádar tilbodi, þar þú hefir tvøfalda orsøk til ad þyggja þad, bædi til ad létta undir þinni bøls byrdi, hér í tímanum, og til ad abla þér eilífrar farsældar í ødrum heimi. Þar fyrir adgjæt þú vel, ad ef þu ert á þinn hátt eins andvaralaus

sem hinn ríki, og hyrdulaus um þinn sálarhag, þá er þitt nálæga volædis stand, þér ecki einasta vegur til eilífs volædis, heldur átt þú, máské, von á þyngra dóms-áfelli, enn sá ríki andvaraleysingur, þar þú hafdir færri freistingum móti ad strída, enn hann, og bardist þó ecki betur; gjættu þessvegna ad þér í Guds nafni, og þygdu Guds nádar tilbod, svo þú egir samt himneska audlegd og sælu í vonum, þó sú jardneska hafni þér, og ad Guds nád megi hughreysta hjarta þitt í ællu mótlæti. En auk þeirrar hættu sem vid þad ridin er, ad forherda sig móti Guds nádar tilbodi, um hværja eg ádur talad hefi, í því falna, ad Gud kunni ad falla yfir oss med tímanlegt straff og hegníngu vegna synda vorra, er ein ønnur hætta, sem af því flýtur, í hværja ecki minna varid er. Henni er svo háttad, ad eptir því sem manneskjan heldur lengur áfram í sinu ydrunarleysi og forherdíngu, eptir því hardnar hjartad æ meir og meir, og ydranin verdur alltíd ørdugri og torveldari, skilníngurinn forblindast, viljinn afvega leidist, tilhnegíngarnar rádriki vex, svo manninum verdur loksins svo torsókt ad komast inn í himnaríki, sem úlfbaldanum í gégnum

nálar augad; Guds orð viñuf alltíd miña og miña á hañ, Guds bendíngar og typtanir géta ecki vakid hañ; hañ byggir sína trú og von á følskum ástædum, hvørjar hønum þó sýnast ad vera svo gyldar og gódar, ad hañ heldur vid þær, eins og añad l:fatkéri, allt til hins sídasta; þetta er þad hørmulega ástand, sem allir þrálátir synda þrælar falla í, sem med andvaraleysi hafna þess góda hyrdirs Jesú nádar-tilbodi, og ecki taka ad sér hans forþjenustu med sañri trú í heiløgu liferni. O hvørsu mikil blindni er á ydrunarlausum Mañeskjum, sem ecki láta Jesú nádar-røddu, locka sig til umvendunar, heldur halda áfram í sinu bænrækarleisi, hálfvelgju og samvitsku svefni; og setjum nú svo, ad þeir, samt sem ádur, ecki drygi nein stór Illverk, heldur gángi áfram í svo følludu meinleysi, á veraldariñar túngu, þá er samt og ádur þeirra sálar ástand fordæmanlegt, og þeir á veginum til gløtunariñar, søkum þess sú lifandi, strídandi og verkandi trú býr ecki í þeirra hjarta. O þú mañeskja! hvør helst sem er, sem fiñur þig ad vera í slíku ástandi, vara þú þig í Guds nafni, og vakna þú upp af þínum svefni, ádur eñ sá

svefn yfir þig fellur, af hvørjum þér er ecki møgulegt ad upprakna ad eilífu! Hvørsu mun þá þiñ miskunsami Gud og Frelsari gledjast, ef þú lætur þig af hans nád vekja til þess andlega lifsins í Jesú Kristó! Gud gefi þad øllum ydrunar lausum!

## Í 5ta máta viljum vér nú hugleida:

## Hvernig madurinñ skal ad því fara, ad gégna Guds nádar-køllun og verda svo sáluholpiñ.

Máské ad ein edur øñur mañeskja, sem les þéssi blød edur heyrir þau lesin; kuñi ad þenkja med sjálfri sér: hvad skal eg þá til gjøra svo ad eg eignist eilift lif? hvørnig skal eg ad því fara, ad mótitaka réttilega Guds nádar køllun? hvørnig gét ég ordid ein sañlucku leg og sáluhólpin mañeskja?

Ó miñ vin! hvør sem þú helst er, sem af allri alvøru og yfirdrepskapar laust spyr eptir þessu, í hjarta þínu, hvørsu gledur þad mig, já gledur mig meir eñ eg gét frásagt, ad ég út af Guds eginordi gét lagt þér rád í þessum þínum sálar-vandrædum, eitt þvíl kt rád sem margar þúsund mañeskjur, sem verid

hafa í sama ásigkomulagi og þú, reynt hafa, og fundid alldeilis fullnægjandi þörf síñi, bædi í lífi og dauda; já, eg er viss um, ad margir þvílíkra, sem nú eru í eilífdina iñgengnir, þakka sínum hjartkjæra Endurlausnara og vegsama hañ fyrir þad, ad þeir fundu þetta blessada ráð í tíma, svo þeir gátu notad sér þad til eilífs frelsis sálum sínum. Æ! eg bid þig þá fyrir Guds skuld, miñ kjæri vin! hlýddu nú á þessa rádleggingu med allri athygasemi, og færdú þér hana sídan í nyt, med allri hreinskilni! Láttú þad þá vera þína fyrstu fyrirtekt, ad þú alvarlega gángir iñ í þitt egid hjarta og ransakir þitt sálar ástand, í Guds augliti; Ransakadú hvørnig ástendst fyrir þér, í tilliti þess sáttmála, þú samid hefur vid hañ, sem er herra þíns lífs og dómari þiña athafna. Hugsadu náqvæmlega og fyrir utan alla sérhlífni og sjálfs afbøtun, um þad, hvørnig þín iñvortis og útvortis, heimugleg og opinberleg hegdan fyrir Gudi hingad til verid hefir; hugsadú um: hvørt þú ecki opt og tídum, móti betri vitund, hefir látid eptir holdinu þess girndir ad rækja; hvørt þú ecki hafir opt látid þiñ vondañ vilja sigra Guds nádar vilja í

hjarta þínu; hvørt þú hafir ecki forsómad med daglegri ydrun, ad afþvo syndir þínar í Guds augliti; hvørt þú hafir ecki opt med kaldsiñi og eptirtektaleysi heyrt Guds ord, bædi iñan kyrkju og utan; hvørt þú hafir ecki opt vitsvitandi forsómad margt tækifæri til ad uppbyggja sálu þína, og ad verka þad góda í heiminum; yfir høfud, prófa þú: hvørt kjærleikiñ til þesskrossfesta Jesú hafi svo iñtekid hjarta þitt, ad þig velgt hafi vid syndiñi, sem añari óþeckt, og þú hafir hønum til þóknunar krossfest þitt hold med þess girndum og tilhnegingum. Hugsa þú nú, segi ég, trúlega um allt þetta, og muntú, án efa, þess var verda, ad þú á margfaldañ hátt hefir misgjørt í Guds augliti; þú munt fiña, ad þú tídum hefir eckert skeitt Guds velgjørningum, bendingum og typtunum, og ad þú þráliga upp aptur og aptur, hefir forsmád hans nádar tilbod, og synt stórt hyrduleysi um þína eilífu velferd, en látid hégómlegt og jardneskt siñislag hjá þér drottna; já, ad þú í øllum hlutum og ótalsiñum, hefir misbrotid med ordum, þaunkum og verkum, og muntú þá sjá ad þú med þessu ecki einúngis uñid hefir til alls þess mótlætis, sem

híngad til hefir kañské mætt þér í heiminum, heldur hefir uñid til eins añars miklu hardara straffs af Guds réttlæti, já, sjálfrar eilífrar fordæmingar. Þín samvitska mun segja þér, ad þú ómøgulega kuñir med þvílíku ásigkomulagi ad standast fyrir Guds réttlæti, heldur hljótir þú cil flega útskúfadur verda, ef þú skyldir dæmast eptir þínum verkum; og jafnvel þó þú ecki hefdir verid svo slæmur ad lifuadinum til, heldur hefdir gjørt ymislig útvortis gódverk ibland, þá muntú saña, ad þau duga eckert fyrir Guds augliti til ad réttlæta þig; þar svo lángt er frá því, ad þau géti bætt fyrir øñur þín illverk, ad þau eru sjálf á ymsañ hátt, fleckud og lytt, af þínu vonda hjarta, svo þú einvegiñ viñur til straffs hjá Gudi, fyrir þeirra skuld.

Af þessu øllu muntú sjá, ad þú gétur ecki svarad Gudi einu á móti þúsund, þegar hañ vill krefjá reikningsskapar af þér. Og nær þú fiñur nú til þessa þíns stóra óverdugleika, hvørsu þú ert engis góds, heldur alls ills maklegur af Gudi, þá láttú þér nú af øllu hjarta um þad fallast. Og — því skyldir þú nú ecki svo gjøra? skyldir þú ecki láta þér þykja á

neinu ríða þína eilífu velferð? skyldir þú eckert kjæra þig um, hvørnig um þína sálu fer að eilífu? — Hættú þessvegna ecki og géfðú þér ecki ró, fyrr eñ þú hefir fengið þá hjálp sem dugir, í þessari þiñi allra stærstu neyð. Þar fyrir í Guðs nafni! flýttú þér á hans fund, sem heitir Jehóva vort réttlæti; til hans, hvørn Guð Faðir hefir sjálfur sett til eins náðar stóls, fyrir oss, í hans egin blóði, það er: hvørn hañ hefir gjørðt að þeirri persónu fyrir hvørja og hjá hvørri leita skyldi náðar og synda fyrirgéfníngar. Miñstú þess: að sá allra tilbeiðslu verðugasti Herra, er í heimiñ komiñ, til að gjøra syndarana, þvílíka sem þú ert, sáluhólpna. Hañ hefir, af elsku til vor aumra syndara, tekið uppá sig að líða þá allra stærstu hormúng, hér á jørðuñi; hañ lá flatur í Gethsemanes grasgarði, undir vorra synda byrði, hvørrar þúngi géck svo nærri hønum, að hañ gjørðist hriggur iñtil dauðans og sveittist blóðugum sveita; hañ héck bleikur og blóðugur á krossinum, og miðt í þeim grimmustu pínslum á sálu og líkama, uppgaf hañ siñ anda, til eins endurlausnar betalings fyrir oss; þañig hefir hañ, allt fyrir oss fullkomn-

ad, og eñ nú í siñi hátign og dyrd miñist hañ vor, bidur fyrir oss, og lekur vorn málstad, hid trúlegasta, hjá sínum himneska Fødur. Andmýktú þig nú af øllu hjarta fyrir þessum Herra, og láttú þitt hjarta verda, sem best þú gétur, sundur marid. Hrópa þú sidan til hans med breñandi bæn, og bidtú hañ: ad hañ fyrir sakir þeirra margføldu pínsla, sem hañ leid, og fyrir sakir síns kjærleika og dýru forþjenustu, fyrirgéfi þér allar þínar syndir, og taki þig af einskærri miskun til nádar. Settú þarhjá þína ørugga trú uppá hañ og efastú ecki um, ad hañ muni, eptir sínu ordi, bænheyra þig, ef þú heldur ydugleg áfram í bæniñi, og þreitist ecki. En láttú þad þá og svo vera þína hreina alvørn, ad halda þér vid Jesúm, og þrengdú þér iñí hans miskunar fadm, þad allra betsta þú megnar. Þegar þú hefir þetta optlega gjørt, muntú reyna þad ad lyktum, ad hañ hugsvalar hjarta þínu og lætur siñ anda bera þínum anda vitni um, ad þú sért Gudsbarn. Þú mátt þá fela hønum á hendur allar þínar naudþurftir, og ecki einasta skaltú þá umhyggju bera fyrir þiñi egin velferd, heldur skaltú þá ogsvo girnast af

hjarta allra maña sáluhjálp, ásamt þér. Iñiluktú þessvegna í bænum þinum, nærst sjálfum þér, alla vini þína og vandameñ, þína kéñifedur og yfirvøld, já allt þitt føðurland; og hvað sem helst þér á hjarta liggur, máttú þá bera upp fyrir þinum Lausnara, og biðja hañ af náð siñi að bæta úr øllu bøli þinu. Leita þú svo á þeñañ hátt allrar þiñar hjálpar, huggunar og gledi hjá þinum Jesú; í fám orðum: hafðú í daglegri bæn og ákalli umgengni með hønum, svo sem með einum trúföstum, elskuríkum og handgengnum vin. Að vísu er það satt, að þú kant ecki að sjá hañ með líkamligum augum, en hañ er þó engu að sídur hjá þér, því hañ hefir lofað að hañ vilji vera hjá vinum sinum, allt til enda veraldar. Þó svo falli nú, að þú kuñir að mæta heimsins spotti og aðkasti fyrir þetta, að þú ber svo mikla umsorgun fyrir þiñi sálar velferð, og af því þú villt ecki framgánga eptir heimsins vísu, þá settú slíkt engañveginn á þig; gleðstú miklu heldur, og vit með vissu, að þú átt þá hlutdeild í þessu Jesú fyrirheiti: **sælir erud þér nær meñirnir, fyrir mínar sakir, hallmæla ydur!** Vilji nockur telja þér trú

um, ad á þessu vandlæte sé ecki þörf fyrir þig, þá getir ordid sáluhólpiñ med miña ómaki, ad slíkt sé ecki nema grillur edur siñis veikju þánkabrot hjá þér og þvíum likt; þá, í Guds nafni, vara þú þig, trúdú ecki þvílíkum; vit fyrir víst, hañ rekur Satans eyrindi, og vill svíkja sálu þína; og hvad vel sem hañ vill þér í likamligum efnum, þá svíkur hañ þig þó í því, sem þér rídur mest á; aumka þú blindni hañs, í hjarta þínu og bid þú Gud fyrir hönum, ad hañ endurvitkist úr Satans snörum og komist til sañleiksins vidurkeñingar. Adeins og yfir allt fram: varastú ad þú skamist þín fyrir Jesú vidur keñingu edur hañs dýrkun, þó ad allur heimuriñ spottadi þig; miñstú þess miklu heldur, sem hañ sagdi vid sína lærisveina: **hvör hañ skamast sín fyrir mig og mín ord, fyrir þañ sama mun eg skamast mín hjá mínum Födur og heilögum englum.** Leitastú og svo vid, allt hvad þér er mögulegt, ad ávinna adra til Guds ríkis, og hefir þú stærri verk gjört í Guds augum, ef þú frelsar eina sálu frá þeim andlega dauda, heldur eñ þó þú frelsadir þúsund mañeskjur úr líkamlegri lífs hættu. Haldtú svo stöduglega áfram allt

til daudans, og gefstú ecki upp; láttu kjærleikañ til þíns Jesú hvetja þitt hjarta til heilags stríds, og horfdú stöddt, med tilhlackandi von, á þá fyrirheitnu dýrdar kórónu á himnum. Drottiñ Jesús, hvørn þú elskar, og á hvørn þú trúir, hañ mun vissulega styrkja þig med sínum anda!

Nú viljum vér í 6tu Grein íhuga
## Farsæld þá, sem í því fólgin er og ávinst med því, ad gégna Guds nádar-kalli.

Kyñi þér nú, kjæri samkristiñ! sá þánkí í hug ad falla: hvada gagn, hvørja huggun og styrk hefi ég og fiñ ég út af trúñi á Jesúm og í því ad umgángast og hafa samneyti med hønum? Miñ kjæri vin! skyldi eg vilja útmála þér øll þau gjædi, sem þú ødlast gétur fyrir trúna á Jesúm, mundi mér aldeilis ómøgulegt verda ad komast fyrir enda þeirrar sumu. Yfir høfud ad segja, uppskérdú þar af þá allra dýrmætustu farsæld í þessu lífi, og óútmalanlega í hinu eptirkomanda. Því nær þú trúir á Jesúm, og tileinkar þér hañs forþjenustu, þá kañtú eptir hans útþryckilegu ordum, ad vera fullviss um, ad allar þínar

syndir eru þér fyrir hans sakir fyrirgéfnar, og þú þarft ecki lengur ad skélfast fyrir Guds réttlæti, edur fyrir tilhugsun dómsins og eilífdariñar. Framvegis nær þú trúir á Jesúm, og nær þú réttilega elskar hañ, sem þig hefir elskad ad fyrra bragdi, og lifir í ástúdlegri hjartans-uñgengni med hønum, fyrir andaktuga og ydugléga um¦enkingu og bæn, þá ødlast þú af slíkri umgengni med þessum þínum ósýnilega, en þó allstadar nálæga vin — æ meiri og meiri krapta, til ad yfirviña og sigra sérhvørja vidlodandi syndsamlega girnd, og færd æ framar og framar lyst, laungun og styrk til ad halda hans heiløgu bodord, og til ad dyrka hañ í allri hegdun þiñi og líferni. Loksins nær þú trúir á Jesúm, og stendur stødugur í øllum kríngum-stædum, í samneyti trúariñar med hønum, þá gétur þú haft eina gledilega fullvissu um þad, ad þú, med øllu þínn, ert undir hans nádar verndun, og allir hlutir skulu þjena þér til góda; já ad þú, nær þú fullendad hefir þína reisu gégnum þeñañ eymda-dal, munt koma til hans, í hans dýrdar-ríki, hvar hañ afþerra mun allañ grát af siña barna augum; hvar engin neyd, engin

sorg skal framar vera; hvar syndin og öll heñar spilling og freistîngar skulu hætta, og hvar sú hólpna sál nýtur í sameiníngu með sínum Herra, óútskýranlegrar farsældar, þeirrar sem engiñ óvinur sær hana svipta, og engin dýrtíð, hörmúng eður dauði, hana að eilífu rænt gétur. Þessi fullvissa — hún uppfyllir hjartað, með iñilegustu rósemð, frið og gleði, og hún gjörir það að verkum, að þú án allrar hræðslu og qvíða gétur tekið ámóti sérhverri þeirri hörmúng og hættu, sem að höndum kémur, já að þú gétur verið ánægður og þolinmóður midt á tíma neyðariñar og allskonar þjáuínga. Þetta reyndi Postuliñ Páll forðum, hvar fyrir haň kuñi, midt í öllum sínum hörmúngum, að skrifa þañig: mótlætíngar þessara tíma eru ecki verðar þeirrar dýrðar, sem við oss mun síðar meir framkoma; item eg formá alla hluti fyrir Krist, sem mig máttugañ gjörir. Segðú mér nú, kjærasti vinur! hvört heimsíns, hégómans og syndariñar þjónusta umbunar með þvílíkri lucku? Eg þori að hrópa mig uppá þiñar samvitsku vitnisburð, hvörr helst sem þú ert; þú veitst að það er satt, að veraldariñar glansandi vegsemð, heñar upp-

hefd og ríkdómur, ellegar heñar skémtanir og dægrastyttingar, þær kuña ad vísu ad géfa mañeskjuñi þvílíka gledi, sem gjørir hana eins og drukkna nokkur augnablik; en, þessi gledi, o! hvørsu fljótt hverfur hún? hvørsu fljótt umbreitist hún ecki í óróseini, misánægju og þúsund umqvartanir, sem opt er ómøgulegt ad stilla, nema med því ad géfa sig aptur í veraldariñar syndsamlegu gledi, og svæfa þañig æ meir og meir samvitsku sína. En þarámóti nýtur eitt sañarlegt Gudsbarn, þeirrar daglegu jøfnu og stilltu siñis ánægju; þad hefir sæta rósemd í siñi samvitsku, og er jafnan gladvært og til frids, hvørnig sem þess útvortis hagir billtast og breitast. Ó! þad veitstú nú, miñ kjæri vin! ad þad er satt, ad alldrei, alldrei hefir þú í veraldariñar og hégómans þjónustu, fundid til þvílíkrar gledi, því svoddan gledi, sem ég segi frá, hún er alleina ávørtur af þeim sañkristilega Guds ótta, og engiñ gétur ødlast hana á añañ hått, eñ med eiñi hjartanlegri umgengni í trúñi og bæniñi, med þeim ósýnilega sálnaña vin- og mañkynsins Frelsara Herranum Jesú Kristo. Nú sjerdú af þessu, miñ vin! hvørsu ósegjan-

leg lucka af því flýtur ad gegna Guds náðarkøllun; engin jarðneskt æra og farsæld er því samjafnandi, ad vera í raun og sanleika Guds barn og eil fs lífs útvalin erfingi; en þetta getur engin verid, nema sá sem gegnir Guds køllun, á þann h tt sem ádur er sagdt. O! ad allir þeir sem kristnir nefnast, vildu af alvoru um þetta þenkja í tíma, og adgjæta, hvorsu ómetanlegum gjædum þeir fyrra sig sjálfa, med því ad hafna Guds náðar tilbodi, hvorjum gjædum þeir svipta sig, ecki einasta í eil fdinni, heldur og svo í þessu tímanlega lífi. Æ! Gud almáttugur—vyrdist—fyrir Jesú Krists skuld ad vekja alla þá sem sofandi eru, svo þeir uppr si af sínum synda-svefni, og ødlist hlutdeild í því dýrmæta Guds barna frelsi!

## En framar vil um vèr í 7da lagi skoda: hvorsu drottinn ber ogsvo umsorgun fyrir sínum børnum, í tilliti þess útvortis líkamlega.

Kynni sá þánki ad uppkoma hjá nockrum, annad hvort fyrir heimsins fortølur, eda af hans egin holdi og blódi: hvørnig fer þá um mína útvortis hagi ef eg gjørist Guds barn,

verd ég þá ecki mótlætis og ólánsmadur? eru ecki øll Kristś-børn — krośs-børn? Hvorsu dárlegur þessi þánki sé, í øllu tilliti, er hægt ad sýna; því, látum nú svo heita, þad satt væri, sem ecki er, ad þeim væri øllum útvortis mótlæti víst, framar hinum, sem Guds børn gjørast, þá sjá allir hvorsu dárlegt þad væri, allt fyrir þad, ad vilja heldur njóta hér eptirlætis (sem þó óvíst er, því margur ógudlegur er og svo undir eins mesti óláns madur), eñ ad lída hér nockurt mótkast med Guds børnum og ega von á eilífri sælu, añars heims. En nú er ecki því máli ad gégna, því Guds børn ega hér í heimi, allt eins víssa, já miklu víssari luckn og velgengni, heldur eñ veraldariñar synir; en hvad meta þáu lucku og velgengni? ecki aud og sælgætingar, heldur daglegt braud med gódri samvitsku, og þessa verda þau víssulega, eptir ósk siñi, njótandi; því þetta fyrirheit Jesú: ad þeim skuli allt þad naudsýnlega tilleggjast af jardneskum munum, sem leita fyrst Guds ríkis og hans réttlætis, þad kañ aldrei ad bregdast. Ad søñu er þad satt, ad heimsins børn eru opt ferdug og útslungin ad græda audlegd og peninga, af því

þau brúka allskonar bædi leyfilega og óleyfilega atferd þar til, en Guds børn skeita ecki um stórt ríkidæmi, og allra sídst ad þau brúki neina eptirsókn eptir því, nema rétt eptir því sem Gud lætur þeim í skaut falla, hvørs þau neyta þá í hófi og styrkja hendur hiña þurfátæku. En þegar almeñileg neyd uppá fellur, þá frelsar Drottiñ opt dásamlega sína og vidheldur þeim þegar hinir ógudlegu fyrirfarast, svo þegar háskiñ er nálægastur, lætur Drottin sín børn opt reyna þad sem **Davíd** segir: **ad hañ vill ecki láta þá til skamar verda, sem á hañ vona.** Uppá þetta høfum vér í heilagri Ritníngu ánægjanleg eptirdæmi. Hvørsu hjálpadi ecki sá almáttugi gódi Fadir þeim réttláta **Noah** og frelsadi hañ og hyski hans midt í syndaflódsins yfirgángi, sem añars eydilagdi gjørvallt mañkynid? Hvørsu stjórnadi hañ ecki høgum þess fróma **Jos.phs** svoleidis, ad jafnvel þad sem brædur hans uppþenktu, til ad steypa hønum í alla ógjæfu, snerist hønum til hins betsta, svo hañ ecki einúngis sjálfúr hófst til æru og metorda, heldur og héldt hañ sínu heila ættfólki og mørgum þúsund ødrum mañeskjum vid lífid?. hvørsu dásamlega

frelsadi Gud ecki sitt Fólk Israel, af þeim Egyptska þrældómi og forsorgadi og mettadi þad, medan þad í heil 40 ár ferdadist um kríng í eydimørkuñi? — Og, þegar Drottiñ vor Jesús Kristur var sjálfur sýnilega nálægur hèr á jørduñi, hvørsu hjartans fúslega hjálpadi hañ þá ecki øllum naudþrengdum og vesælum, er til hans hjálpar og hælis leitudu? hañ mettadi þá húngrudu, læknadi þá sjúku og huggadi þá hrelldu. En — kjæra Guds barn! vit fyrir víst ad hañ er eñ nú, þañ dag í dag er, hiñ sami og hañ var þá; hans gædska og almætti þreytist aldrei nè þrotnar; eñ nú kañ hañ og eñ nú vill hañ vissulega hjálpa øllum þeim, sem audmjúklega og iñilega halda sér til hans og leita hans hjálpar. Nú kañskè þer komi í hug ad þenkja: hañ gjørir þó engin kraptaverk framar; vér kuñum nú ecki ad vænta oss þvílíkrar yfirnáttúrlegrar hjálpar af hønum, sem hañ á þeim døgum sýndi; Satt er þad ad vísu; en vit þó fyrir víst, ad þad sama sem hañ fordum framqvæmdi fyrir sín kraptaverk, þad sama kañ hañ eñ nú ad gjøra, med stjórnun siñar vísdómsfullu forsjónar. Med aldeilis náttúrleg-

um medølum, já þeim medølum, sem þér allra sídst skyldi til hugar koma, kañ hañ vissulega ad frelsa þig frá sérhvorri uppáfallandi neyd og háska, nær hañ fiñur þad þjenanlegt, og nær hañ sjer þig hæfañ til því móti ad taka. Og til þess ad sañsæra þig því betur um þetta, vil ég skíra þér frá eptirfylgjandi tilfellum, sem í raun og sañleika hafa til borid, og hvar af ljóslega vottast hvorsu ad Drottiñ gleymir ecki hinum Gudhrædda, heldur hjálpar hønum undarlega; líka sjest þar af, hvorsu ein trúarfull bæn harmþrúngiña sálna, uppstígur til Drottins og ødlast bænheyrslu.

## Svo víllium vér þá í 8unda máta framsetja: nockur dæmi uppá þad, hvorsu Drottiñ hjálpar sínum børnum ogsvo út af þeirra líkamlegu neyd.

---

## Sú 1ta Dæmisagan hér uppá er þessi:

Eiñ kristilega siñadur umbodsmadur á einum stad í Þýskalandi, var af einu ógjæfu tilfelli, sem uppá hañ fallid hafdi, komiñ í ytrustu vandrædi, svo hañ sá sér enga vegi til ad

svara sinni umbodsafgift, sem bædi var bhsna mikil, og þar ad auki átti snarlega ad lúkast; en hann vissi ad herramadur sá, hvörjum hann átti afgiftinni ad svara, var einn mikid hardur madur af náttúru, og þar á ofan einn stór Guds spottari, sem forsmádi allann kristinndóm; og þetta jók nú ecki litlu á vandrædi þessa fróma vesælamanns. Í þessari neyd stadour, géck hann einmana frá bæ sinum út í einn skóg, sem þar lá nærri, fécc sér þar einn afvikin stad, lagdist á bæn, og útjós sínu hjarta fyrir þeim óstjnilega, en allstadar nærveranda Gudi og Frelsara, og bad hann rétt hjartanlega um huggun og hjálp, í þessum sínum vandrædum. Honum óvitandi hafdi herramadurinn verid nálægur, ad þessu sinni, þar í skóginum, sem þjódgata lá, og hafdi heyrt á alla hans bænagjörd. Skömmu þar eptir lét herramadurinn sækja hann, og skipadi hønum ad koma uppá slotid til sín. Hér hlaut þá þessi frómi madur fyrst, ad heyra spott og hædni móti sér, fyrir sinn Guds ótta; en loksins sagdi Herramadurinn til hans: hefdir þú haft vitid, þá áttir þú ad snúa þér til mín, og leita hjálpar hjá mér, því þad er ég einn, en ecki allar þínar heimsku-

legu bænir til Guds, sem er í standi til ad hjálpa þér; og til ad sýna þér, ad þad satt sé, skal eg nú uppgéfa þér þad hálfa af þinni umbods-afgift á þessu ári, sem þú varst kominn í svo mikil vandrædi útaf. Sá gódi umbodsmadur komst nú innilega vid af þessari óvæntu hjálp, þackadi ad sønu Herramanninum; en undir eins og hann, hid fyrsta, kom í einrúm, útjós hann sínu hjartans þacklæti til Guds med mørgum tárum, fyrir þad hann hefdi svo nádarsamlega bænheyrt sig, og jafnvel brúkad einn af sínum bitrustu fjandmønnum, sem medal, ad hjálpa sér, þar hann forundrunarlega hafdi snúid Herramannsins hjarta.

## Sú ønnur dæmisaga er þessi:

Einn gudhrædddur, en mikid fátækur bóndamadur í Englandi, ad nafni Thomas Hoonham, hafdi enganu annan bjargarstofn, til ad forsorga sig sjálfann, konu sína og tvø børn med, enn einn asna, á hvørjum hann flutti steinkol til nágranna-héradsins. Eitt qvøld kom hann heim, án þess ad hafa fengid peninga fyrir kol sín; Í húsinu fann hann hvørki braud ellegar nockurn annann munnbita af mat. Børnin

gr tu beyskelega af húngri og módirin med þeim; loksins sofnudu þau øll út af, af vanmegni. Sá fátæki naudþreyngdi madur geck þareptir í túnglskininu, út af húsi sinu, til eins afvikins stadar, og þenkti med sér, um ord þau sem standa hjá spámanninum Habakuk í þeim 3dja kapitula svohljódandi: jafnvel fíkjutréd ecki blómgist, og þar sé enginn gródi í víntrjánum, þó olíutrésins ávøxtur bregdist og enginn af akrinum gefi fædslu, þá vil eg þó vera glàdur í Drottni, eg vil gledja mig í Gudi míns hjálpræðis; Og midt undir þessum hugleidingum, horfdi hann med þvílíkri hjartans gledi yfir í Guds nádar — og Jesú kjærleiks — afgrunn, svo ad hann øldúngis gleymdi sinni útvortis neyd; hann eyddi hérumbil hálfri annari stundu í þessum sætu hugleidingum og geck, ad því búnu, heim til sín. Þegar hann kom nærri húsglugga sínum, vard hønum litid í gégnum hann, inn í húsid, sá hann þá eitthvad sem hann átti ecki von á, liggja þar á palli einum, en sem hann kom nær, sann hann ad þad var ein steik og eitt braud. Hann svipadist í kríngum sig, hvørt nockur væri þar adkominn í húsinu, og vard eingis var;

hañ kalladi, og enginn gégndi hønum. Þar eptir géck hañ iñ í svefn-húsið, vakti konu sína og børn, sem þá øll með gleði og þacklæti, stilltu sitt húngur. Lengi var það eiñ huliñ leyndardómur, hvaðan þessi óforvarandis fæðsla var komin; en sá maður, sem þeñan tilburð fyrstur uppskrifaði, segir frá því á þeñan hátt: tólf árum, segir hañ, eptir að þetta skéði, kom eg í þessa sveit, og í einu samqvæmi, sem eg var staddur, var minst á eiñ nafnkuñañ gnyara og okurkarl, sem áður hafði átt heima í því plássi, og spurgði ég hvað orðið hefði af egnum hans eptir hañ, og bætti því við: að ég hélði, að hañ í lifanda lífi aldrei hefði gjørt eitt einasta góðverk af gótsi sínu; þá svaraði mér ein øldruð qvenpersona, þar nálæg, hvør áður verið hafði bústíra þessa gnyara: víst hefir hañ þó gjørt eitt góðverk, þó það vildi undarlega til. Hérum fyrir 12 árum, sagði hún, skipaði hañ mér, eiñ morgun, að steikja eina steik og kaupa tvø brauð, og þar eptir géck hañ á torg, eins og hañ var vanur, og hafði stiçki af osti og brauði í vasa sínum; um qvøldið kom hañ heim aptur, og lá mikið illa á hønum og géck

til reckju; eptir hér um tvær stundir lidnar, kalladi hañ á viñumañ siñ, og skipadi hønum ad bera añad braudid og steikina til eins fátæksmañs, þar skamt frá, sem hét Hovnham; þegar viñumaduriñ kom á bæiñ, sañ hañ fólkid allt sofandi, og lagdi svo matiñ þarsfrá sér, án þess ad segja nockrum til hans. Morguniñ eptir sagdi sá gamli mikid óánægdur, vid viñumañiñ og mig: ad hañ í gjærdag hefdi ófyrirsynju ætlad ad tractera tvo forpaktara, sem hañ hefdi átt von á ad mundu heimsækja sig, en þeir hefdu narrad sig og ecki komid; næstlidna nóttu qvadst hañ hafa sofid mikid órólega, og sig hefdi þrisvarsiñum, hvad eptir añad, dreymt, svo hañ jafnvel hefdi vaknad þar vid, ad sá fátæki Hovnham og hyski hans, væri ad deyja af húngri; í þridjasiñi sagdi hañ, þessi narralegi draumur hefdi tekid svo á sig, ad hañ hefdi ecki ro haft, fyrreñ hañ hefdi verid búin ad fremja þad heimskupar, ad senda þessu folki matiñ; en þar sem hañ hefdi látid draumiñ gicka sig til þessa, yrdi þad svo ad vera sem komid væri; en hañ fyrirbaud ockur ad segja þad nockrum mañi, ellegar hótadi hañ ad reka ockur úr vistiñi. Kona sú sem frá þessu sagdi,

bætti því vid: ad þar sem nú væri svo lángt umlidid, sídan hañ dó, þá þyrdi hún nú vel ad segja frá því, ad hañ ad minsta kosti hefdi þó einusiñi á æfi siñi gjafmildur verid, jafnvel þó hañ ydradist eptir því sídar.

## Sú 3ja frásagan er þessi:

Þegar þeir fronsku eittsiñ, í strídum þeim sem þeir á nú undanförnum árum átt hafa, drógu med her iñ í Þýdskaland, þá ætludu þeir med makt ad iñtaka, med ødrum, eiñ viss-añ litiñ kaupstad í Wyrtenbergs héradi; Iñ-byggjararnir hlupu af daudans skélfingu iñí kirkjugardiñ, hvar þeir allir komu saman. Þeirra gudhræddi Prestur kom ogsvo þángad til þeirra, og heili söfnuduriñ bad hañ, ad hañ vildi halda eiñ bænatíma med þeim í kirk-juñi; Presturiñ gjørdi þad mikid fúslega, og kirkjuñi var lokid upp, og bædi kéñimaduriñ og tilheyrendurnir gengu þar iñ. Hjartanlegar og iñilegar, eñ vant var, bad nú þessi samein-adi hópur Gud um, ad sá yfirhángandi háski mætti frá þeim snúast. Og sjá! óvinirnir tóku stefnu í adra átt, eñ þeir ættludu í fyrstu og ecki eiñ madur kom iñ í stadiñ. Nockrum

dögum þareptir, þá añar herflockur stefndi þángað, og var ecki nema í tiñ veg í burtu frá stadnum, hljóp fólkid eñ nú aptur til samans í kirkjuñi, og Presturiñ badst eñ nú í þetta skipti fyrir, ásamt þeim, med iñilegu trúnadar-trausti, og eñ nú ad þessu siñi sneri Gud háskanum burt frá þeim. Ovina herskariñ hélldt rólegur fram hjá, jafnvel hañ væri rétt ad segja sem komiñ ad portunum.

## Sú 4da Dæmisagan,

hvör ad er þessari lík, og til bar á þeim sömu stunds tímum, sem ádur er sagt, hvar med og vottadist nærfeldt samslags bænheyrsla og hjálp af hendi Drottins. Þad skédi nefnilega: þegar yfir-hertugans Jourdans franski her var sleginn af þeim þýdsku ur Austurríki, svo hañ dróg sig þessvegna í hasti til baka, ad áñi Rhin, þá frömdu þeßir herflockar á leidiñi, sem alkuñugt er, sumir af þeim skélfilig illvirki hér og þar. Á þeim tíma vard ogsvo eiñ réttsiñadur og gudhræddur embættismadur á landinu, yfirfallin af einum flocki þessara útlendu ræningja. Ad flýja, og þañig ad frelsa sig og sína, var honum ómögulegt.

Hañ og húsfólk hans stód þar allt svo yfirfallid af daudligri hrædslu; en, nú sneri þessi gódi madur sér af iñsta hjartans gruñi til síns himneska Födurs og sagdi: "Og svo nú, þó þad "sýnist ad þad sé hreint útgjört um oss, og svo "nú kañtú, ó þú almáttugi Fadir! eñ nú ad "hjálpa oss, æ! þarfyrir hjálpadú! hj lpadú "og frelsa oss!" Í því sama augnabliki kom eiñ franskur hers-yfirmadur, med nockrum riddurum iñí gardiñ; þessir adkomnu þrengdu sér iñ í húsid; og ráku þetta ræningjalid í burtu, ádur eñ þad hafdi gjört þeim góda embættismañi og hans fólki þañ minsta skada. Þessi frelsadi hópur stód nú þar, og med iñilegu hrærdum hjörtum og tárafullum augum, þackadi Gudi og þeim adkomna herra, fyrir sitt frelsi: En þessi edallundadi ypparlegi franski madur, vildi eckert þacklæti þyggja; "þackid "mér ecki," sagdi hañ, "heldur þackid Gudi, "sem mér óafvitandi sendi mig til þessa húss, "til ad frelsa ydur! þenkid þó añars í millum, "í kjærleika til m'n, og miñist þess, ad ég er "eiñ sañur frans — madur."

Sjáum nú kjærustú vinir! af öllu þessu þañig heyrir Drottin bænir síña naudþrengdu

trúaðra barna, og hañ kañ á margan hátt að hjálpa, sem mañleg skynsemi sér alls ecki ómindað gétur. Vit og fyrir víst, svoleiðis kañ hañ ogsvo að hjálpa þér, miñ nauðþrengdi samkristiñ! á tíma neyðariñar, ef þú með trúar og vonarfullri bæn, snýr þér til hans milda føður-hjarta.

Látum oss nú í 9da lagi íhuga það:

## Hvorsu sá sañkristni gétur verið glaður og lukkulegur í þeim stærstu hørmungum.

Máské lesendum og heyrendum mínum kuñi, útaf því áður er sagt, sá þánki í hug að falla: reynslan sýnir þó, að sjálfir þeir guðhræddu komast ecki alltíð hjá tímanlegri neyð, ellegar frelsast svo dásamlega, sem þau framfærðu eptirdæmi sýna; meñ mega opt sjá uppá það, að jafnvel þeir hreinskilnustu kristnu hljóta opt að líða sjúkdóm, fátækt ellegar aðrar jarðneskar hørmúngar. Eg svara þar til: já, það er vissulega satt, að Guði ástundum þóknast að tilsenda og uppáleggja sínum børnum neyð og mótgáng í þessum heimi, og það gjørir hañ, søkum þess hañ, sem allra best veit hvað oss,

vesælum mañeskjum, þjenanlegt er; hañ sjer ad neyd og mótgángur kañ ad vera þeim margsiñ-um til ósegjanlega stórrar, nytsemi; já, má-ské alldeilis naudsynlegur, til þeirra, ecki ad eins tímanlegu, heldur og eilífu velferdar. Þar fyrir mátti og svo sá gudhræddi Davíd af egin reynslu segja: sæll er sá madur sem þú Drottiñ! leggur typtun á. Ps. 94, 12. Og Páll kuñi med djørfúngn ad skrifa: miñ son! vyrd ecki lítilś typtun Drottins, ervæntú ecki, heldur nær hañ typtar þig, því hvørn þañ sem Drottiñ elskar, þañ agar hañ. Ebr. 12, 5—6. En vertú, kjæri vín! viss um þad, ad jafnvel midt uudir typtuniñi, jafnvel midt á þeim hørdústu hørm-únga tímum, sjá Guds børn sig þó ecki yfir-gefin af sínum himneska vin, því eins og þau af øllu hjarta snúa sér til hans, med bæniñi um huggun og hjálp, svo fiña þau virkilega og svo hjá hønum og ødlast styrk til ad taka á móti og umbera allt þad, sem þeim uppáleggst med rólegri þolinmædi, já, opt og tídum jafn-vel med iñilegnstu gledi. Þar fyrir kañ sá sañkristni margsiñum, midt í því þýngsta vol-ædi og fátækt, vera betur til frids, og ánægd-

ari en eitt veraldar barn midt í þeirri allra stærstu audæfa nægd, og þó hañ liggi í stríd-ustu verkjum, á síñi sóttar-sæng, já rétt fyrir eilífdariñar port dyrum, kañ hañ ad hafa eitt lángtum gladværara og øruggara síñi, eñ sá vesæli hégómans þræll hafa kañ, midt í þeim lystugasta selskap, hvar hañ er umkringdur af øllu því, med hvørju hañ uppfyllt gétur sínar holdlegu girndir.

Ó! svoleidis gjørir sá sañi Guds-ótti mañeskjuna luckulega, midt í øllum kringum-stædum, svo ad eitt Guds barn skyldi í þeim stærstu þjáníngum, ecki vilja viña til ad skipta um vid Guds- og Jesú-forsmánara, jafnvel þó þad ætti þarmed kost á ad njóta allrar þeirrar sælu og eptirlætis, sem veröldin kañ ad gefa; uppá hvad vér høfum ljósasta dæmid á þeim trúarfullu Jesú píslarvottum, hvørjir, þótt med øllum píslarfærum, sem Krists fjand-maña hjørtu, af helvíti tendrud, gátu upp-þenkt, kúgadir væru, til ad afneita sínum lausnara, en á adra síðu frambodin allskonar veraldar sæla, ef þeir undan létu, þá var svo lángt frá því, ad þeir skeittu þessu hid minsta, ad þeir gengu gladari útí bálid, og undir bød-

uls øgsina, heldur eñ fjandmeñ þeirra vóru, sem þó sáu sína vild á þeirra píslum og liflàti. Sjá þvílikt kraptaverk fremur Guds andi, í hjørtum þeirra, hjá hvørjum haň fengid hefir ad planta rætur þess saňa Guds-ótta og trúariñar á Jesúm Krist þaň krossfesta.

Nú í 10da máta til álÿktunar

## Eitt ord til þeirra, hvorra vegna sérdeilis þessi bæklingur skrifadur er.

Nú, miñ kjæri Lesari og heyrari! hvad þenkir þú nú um þad mikilvæga efni, sem umhøndlad er í þessari lillu bók? Segi þín egin samvitska, þín egin iñvortis saňfæring þér, ad verøldin med øllu sínu falska, glansanda yfirlæti og vegsemd, sé ómøgulega í standi til ad gjøra þig lukkulegaň, eda géfa þér eitt saňrólegt og ánægt hjarta, gétir þú ecki neitad því, ad Guds elskurika forsjón hafi þingad til fyrir sitt ord, og fyrir mørg øñur medøl, leitast vid ad uppvekja þig af þínu andvaraleysi og dofiňleika, og bjóda þér fram øll þau ypparlegu gjædi sem kristiňdómuriň med sér færir. Vitir þú af Guds ordi, hvør þessi gjædin eru, og á hvorn hátt og med hvørju móti þú gétur

í þeim hlutdeild fengid; sjáir þá og svo og vitir mørg dæmi til þess, ad þeir, á medal þinna med=mannESKna, sem af øllu hjarta hafa snúid sér til Drottins (eg tala ecki um þá, sem ad eins med munninum viðurkénna kristin= dóminn, heldur þá, sem af øllu hjarta hafa snúid sér og ordnir eru í raun og sannleika Guds børn og Jesú hreinskilnir elskarar), vitir þú, segi ég, dæmi til þess ad slíkir sann= umvendtir eru sérdeilis vel ánægdir yfir sínu andlega hlutskipti, og því, ad þeir eru frels= adir frá syndarinnar yfirdrottnun, og ad þeir þarmed fengid hafa krapta til ad dýrdka sinn Herra, í øllum sínum lifnadi og framferdu, svo þeir þessvegna eru til frids, jafnt í mót= læti sem medlæti, já og jafnvel géta med føgn= udi gengid á móti daudanum og eilífdinni. Sertú nú, kjæri vin! kominn ad raunum allt þetta, villtu þá ecki ogsvo athuga, hvad þér sjálfum lidur, hvørt þú ert nú einn af þeim, sem þessara gjæda notid gétur? og hvørt þú ert á þeim rétta vegi til eilífs lífs? — O! gjæt ad þér í Guds nafni fyrir sakir þinnar egin vel=

ferdar, og táldrag ecki sjálfañ þig! O! láttú allar þessar sañfæríngar koma þér til ad gjørast hlýdugur þíns Frelsara náðar-rádi; þíns Frelsara segi ég, sem er þiñ allra besti, þiñ trúfastasti vinur; hañ, sem af eintómum kjærleika til þín, hefir skapad þig og endurleyst, og vill þér svo óútsegjanlega vel i øllum hlutum; hañ, sem hefir af einskjærri náð, gefid þér sjálfañ sig, og ef hañ hefdi nockud betra eñ sig sjálfañ, mundi hañ ogsvo gefa þér þad.

O! komdú þá til þessa allra ljúfasta, allra ástúdlegasta mañkynsins velgjørara! kom til hans hans og leita nádar og fyrirgéfníngar hjá hønum! kom til hans med breñandi bæn og lifandi trú, hañ mun alldeilis ecki, hvad syndugur og vesæll sem þú ert, synja þér siñar nádar vidtøku.

En, offradú hønum þá ogsvo øllu þínu hjarta og øllum þínum krøptum, já, øllu því hvad þú ert og hefir, offradú því øllu af allri alvøru til hans dýrdar og þjónustu.

Þetta, þetta, og eckert añad, er nú veguriñ til þeirrar sóñu luckú; hvør sá, sem

á hönum gengur, yfir hönum er náð, friður og blessan. Æ! viljir þú nú í þessari blessun ogsvo hlutdeild hafa, þá drag nú ecki undan, það allra nauðsynlegasta verk: **að snúa þér til Drottins.** Drag það ecki undan segi eg, þú veitst þó ecki hvað lángt er eñ nú eptir af þiñi reysu í gégnum líf þetta; það er alldeilis hulið fyrir oss, hvørsu mørg ár, hvað margar vikur, ellegar máské að eins dagar, eñ nú eru til baka, þar til það allra vigtugasta augnablik kémur, þegar þú í eilífdiñi skalt mæta fyrir augliti þess alvitra Dómara. En það veitstú, og það er óoulið fyrir þér, að ef þú **úmvendtur, án sañrar yðrunar, trúar og lífernis betrunar** ferð í burt úr þessum heimi og mætir fyrir Guðs dómstoli, er þér handvís eilíf fordæming. Eg ámiñi þig þarfyrir, eñ nú eitt siñ, miñ kjæri vin! drag ecki þína umvendun undan, því eptir þeim miñsta undandrætti kañtú að mega yðrast, og það þó forgéfins, um alla eilífð. Þar fyrir segi eg til þín, hvør sem hellst þú ert, sem þetta les eður heyrir: **flýttú þé, að frelsa sálu þína!**

Já, eg snỳ frá þér máli mínu, til hans, sem komin er til ad frelsa þad sem fortapad er; eg bid og segi: Herra Jesú Kristi! heyrdú Drottiñ málid mins hjarta og láttú mitt ákall koma til þín! Herra! láttu ecki, ef møgulegt er, þitt blód til ónýtis verda á nockrum þeirra, fyrir hvørja þú hefir því úthellt! umvendtu øllum ydrunarlausum syndurum, og lát þá í tíma uppvakna af sínum andvaraleysis svefni! straffa þú þeirra samvitskur med þínum anda og ef þørf gjørist, typta þú þá útvortis med þínum vendi, svo þeir snúi aptur af vegi daudans og gløtunariñar! Kêñ þeim ad sjá og sañfærast um, hvørsu þeir svipta sig allri sañri lucku, sálar rósemd og føgnudi, med ad halda áfram í syndunum, og hvørsu sú holdsins farsæld og gledi sem þeir eptirstunda er svikul og banvæn bædi lífi og sálu! Þú sem umvendtir þeim gudlausa Manasse og þeim ógnarlega Saul, já þúsund ødrum, syndú ogsvo þiñ dásamlegá nádar-krapt, á þeim mørgu ydrunarlausu, sem lifa í heiminum, á þessum tímum, og snúdú þeim fyrir þiñ anda, af vegi

syndariñar og daudans. O þú Hertógiñ yfir Guds her! gjør fyrir þiñ nádar=krapt, þessa Satans herleidingu ad þinu herfángi, og frelsa þessa syndariñar=fánga út af þeirri gryfjuñi, hvar eckert vatn er iñi. Bænheyr þad, vegna þiñar dýrdar! Amen!